# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

18. ÁRG. WINNIPEG, OKTÓBER 1903. NR. 8.

## Sálmr

**út af Matt. 16, 1—3—eftir séra Valdemar Briem.**

(Lag: Nýja skrúðið nýfœrð f.)

1. Margr hefir máltak það:
Morgunroðinn vætir.
Það er kunnugt aftr, að
aftanroðinn bœtir.
Útlit loftsins þekkið þér,
þó ei neinn sem vera ber
tímans tákna gætir.

2. Náttúrunnar leyndu lög
leitið þér að finna;
aftr stundið eigi mjög
eilíft líf að vinna.
Hér þótt verði gatan greið,
getr það ei vísað leið
heim til himinkynna.

3. Hvert er helzta tímans teikn?
Trúarleysis alda
brýzt á lönd með fár og feikn,
flytr strauma kalda, —
stormi hrokans œst er af,
ei þó fær oss sökkt í kaf.
Virkin herrans halda.

4\. Blóðið drottins benja var
bjartr morgunroði,
kaldra skúra kristninnar
kveiktr fyrirboði.
Milt ei sýnist útlit enn ;
yfir getr dunið senn
þrumuveðrs voði.

5\. Einhvern tíma sortinn sezt,
sérhver líðr dagr ;
einhvern tíma aftr sést
aftanroði fagr ;
boðar einnig betri tíð
blóðið drottins kristnum lýð ;
betr blómgast hagr.

## Vantrú á kraftaverk.

Almennt talað er það svo, að þeir, sem segjast ekki trúa á kraftaverk, hafa enga fast-ákveðna hugmynd um, hvað þeir eru þar að tala um. Þeir vita ekki, hverju þeir eiginlega trúa eða trúa ekki í þá átt. Vanalega bendir slíkt tal þeirra að eins á það, að þeir hneigist til efasemda um hvað eina, sem þeir skilja ekki, án þess þeir hafi gjört sér ljóst, hve langt trú sú eða vantrú nær, sem um er að ræða. Margr lesandi biblíunnar á vorri tið virðist eins illa að sér í þessari grein og Colenso biskup*) eða Ernest Renan**), sem hvor um sig fóru með rugl, þegar þeir voru að skýra frá því, er stæði í biblíunni og væri þar kennt, — svo mikið rugl, að slíkt myndi nú þykja tiltölumál af meðal-lærisveinum í miðdeildum hvers

*) F. á Englandi 1814, d. 1883. Helzta ritverk hans er um fimm bækr Mósesar og Jósúa-bók. Það kom út í 7 pörtum á árunum 1862 til 1879, hafði áhrif á Kuenen, föður biblíu-,kritíkarinnar' nýju, og varð fyrir sterkum mótmælum trúaðra guðfræðinga. Hann var missíónar-biskup ensku kirkjunnar í Natal í Afríku, og þar andaðist hann.

**) Frakkneskr fjölfræðingr og rithöfundr, f. 1823, d. 1892. Meðal hinna mörgu ritverka hans er æfisaga Jesú, sem kom út 1863, eins konar skáldsaga út af guðspjöllunum, þar sem guðdómi og syndleysi frelsarans er hiklaust neitað.

sunnudagsskóla, sem er í góðu lagi. Að segja, að maðr trúi ekki á kraftaverk, það er bending þess frá þeim hinum sama efasjúka manni, að hann skilji ekki sjálfan sig eða það, sem hann er um að tala. Við einn slíkan mann átti sá, er þetta ritar, þannig lagað samtal:

,,Eg met biblíuna mikils" — sagði hinn fyrrnefndi — ,,fyrir sannindi þau, sem þar eru kennd, og fyrir hinar vitrlegu leiðbeiningar hennar að því er snertir áríðandi skyldur. En það segi eg hiklaust, að eg trúi ekki á kraftaverka-sögur biblíunnar. Eg lít á þær sem austrlenzkan skáldskap, er eigi megi bókstaflega skilja."

,,Eigið þér við nokkra sérstaka frásögu í biblíunni, er yðr finnist ótrúleg? Eða eruð þér að tala um þær sögur allar í einu?"

,,Með því, sem eg sagði, á eg við það, að eg trúi ekki á neitt það, er kraftaverk kallast. Eg trúi því, að allir hlutir sé háðir náttúrulögmálinu, sem vér þekkjum. Engan þann atburð má sannan telja, sem staðhœft er um að ekki nái til náttúrulögmálsins. Eg get engu slíku trúað."

,,Þér trúið þá ekki á neina ókomna tilveru — áframhald lífsins eftir að því er lokið hér?"

,,Jú, eg trúi því sem líklegu, enda þótt það sé ósannað. En það er í öðru ríki tilverunnar en þetta líf er. Má vera, að í öðru lífi sé sumt, er liggr fyrir utan endimörk náttúrulögmálsins eins og vér þekkjum það."

,,Þér eruð þá fús til að kannast við, að til geti verið í alheiminum eitthvað, sem lögmál náttúrunnar eða það, er svo er nefnt, ekki nær til. Eða er ekki svo? En þér eruð fullviss um það, að guð hafi aldrei leyft neinu barni sínu, hvorki Móses, né Jósúa, né Elísa, og jafnvel ekki heldr Jesú, að beita neinu valdi í þjónustu hans nema innan takmarka náttúru-aflanna eins og vér þekkjum þau? Mér skilst, að þetta sé það, er þér haldið fram. Er það svo?"

,,Að nokkru leyti er þetta trú mín."

,,Má ekki vera, að sumir af þjónum guðs í fornöld hafi verið kunnugir eða fengið leiðbeining til að laga sig eftir ýmsum þeim verkunum náttúrlegra afla, sem virtust öðrum

mönnum undarlegar eða meir en náttúrlegar, þótt nú sé vel skiljanlegar í ljósi vísindalegrar þekkingar síðari tíma? Til dœmis má nefna för Ísraelsmanna yfir Rauðahafið; hrun múra Jerikó-borgar eftir að herskararnir, sem að sóttu, höfðu hvað eftir annað í samfellu gengið þar umhverfis; fœrslu skuggans á sólskífunni á dögum Esekía konungs; og mörg önnur undr, sem biblían segir frá.''

,,Auðvitað skal eg fúslega kannast við, að hver sá atburðr, sem í biblíunni er kallaðr kraftaverk og sýnir sig í ljósi nútíðarinnar rannsókna að hafa verið í samrœmi við lög náttúrunnar, getr sannr talizt. En slíkt eru undantekningar. Það, sem eg ekki trúi, eru hin ónáttúrlegu og yfirnáttúrlegu kraftaverk, sem svo mikið er af í frásögu biblíunnar.''

,,Þó höfðu öll þau kraftaverk, sem náttúrufrœði vorra tíma gjörir oss skiljanleg, sína yfirnáttúrlegu hlið, sem enginn gat neitt um vitað án sérstakrar guðlegrar tilhlutunar; eða þannig birtust þeir atburðir, þegar guð lét þá verða eða greip með þeim inn í söguna á þeim eða þeim stað og tíma.''

,,Eg trúi því, að guð veiti börnum sínum oft hvöt og leiðbeining, sem haft getr áhrif á líf þeirra í mikilvægustu efnum. En slíkt er ávallt samkvæmt lögum eða öflum náttúrunnar.''

,,Já, kraftaverk þau, sem frá er sagt í blbliunni, eru að því leyti ólík öðrum austrlenzkum undrum, að hin síðarnefndu eru ónáttúrleg, þar sem hin fyrrnefndu aftr á móti eru blátt áfram yfirnáttúrleg, —látin koma inn í náttúruna úr ríki því, sem yfir henni er. Það er í þessu tilliti, að kraftaverkum biblíunnar stingr algjörlega í stúf við aðrar eins kynjasögur og þær, er koma svo títt fyrir í Þúsund og einni nótt og öðrum slíkum austrlenzkum ritverkum. Kraftaverk biblíunnar eru aldrei ónáttúrleg eða gagnstœð náttúrunni, þótt þau hins vegar beri vott um yfirnáttúrlegt afl —œðra afl en náttúrukraftana.''

,,En eg fæ ekki séð, að sérstakleg ‚kraftaverk' komist neinsstaðar að í heimstilveru vorri hér, þar sem hin venjulegu lög guðs eru verkandi undir stjórn hans og í samhljóðan við ráðsályktanir hans.''

,,Eruð þér viss um að þér vitið, við hvað þér eigið, þegar þér nefnið orðið ,kraftaverk'? Að minnsta kosti þrjú mismunandi orð, hebresk og grísk, í biblíunni eru á vorri tungu þýdd með orðinu ,kraftaverk'. Eitt þeirra orða merkir að réttu lagi: ,undr', annað: ,máttarverk', þriðja: ,tákn' eða ,teikn'. Viljið þér neita því, eða efizt þér um það, að Móses, eða Jósúa, eða Elías, og sérstaklega, að Jesús við ýms tœkifœri hafi framkvæmt undr (ýmislegt undrunarvert), eða gjört máttarverk, eða verk, sem þannig voru löguð, að kallazt geta tákn, bendandi á sérkenni þeirra eða embættisköllun?"

,,Auðvitað neita eg því ekki. Um það hefi eg aldrei efazt."

,,Þér viljið þá ekki neita öllum ,kraftaverkum' í hinni eiginlegu merking orðanna, sem svo eru þýdd í biblíunni, og efizt ekki um þau?"

,,Eg kannast við það, að orðið ,kraftaverk' er tvírætt í vanalegu máli."

,,Já, það er auðsætt, að þér — eins og margir aðrir efasjúkir menn, þar á meðal Colenso biskup og Ernest Renan, jafnvel þeir, sem hafa orð á sér fyrir lærdóm og sterkt hugsunarafl, menn, sem með engu móti myndi vilja taldir vera fljótfœrir eða fáfróðir í riti eða rœðu — viðhafið orð, sem mikilsverð sannindi snúast um, í þeirri merking, sem alls ekki er samhljóða skoðunum yðar á kenning biblíunnar og jafnvel ekki bendir neitt verulega til skoðana yðar í því tilliti."

,,Eg viðhafði orðið ,kraftaverk'; og eg ætlaðist til, að sama merking væri í það lögð, sem það vanalega hefir í almennings tali. Eg trúi ekki á kraftaverk, að því leyti sem með því orði er átt við það, að einhver atburðr hafi komið fyrir, sem ekki verðr gjörð grein fyrir samkvæmt reglulegum eða fastbundnum lögum náttúrunnar, — atburðr, sem staðhœft er að orðið hafi beinlínis af guðs völdum, svo að guð með þeim atburði hafi á sérstakan hátt gripið inn í gang hlutanna. Á slík kraftaverk get eg ekki trúað, enda þótt frá þeim sé sagt í biblíunni."

,,Þér játuðuð því þó, að frá ýmsum þeim atburðum sé

sagt í biblíunni, sem virtust yfirnáttúrlegir, þegar þeir gjörðust, og í ljósi þeirrar tíðar myndi hafa verið yðr alveg ótrúlegir, en síðar, eftir að mannleg þekking hafði tekið svo og svo miklum framförum, hafa sýnt sig að vera í mesta máta trúlegir. Játið þér því ekki enn?"

,,Auðvitað gjöri eg það. En eg neita því, sem sagt er um þá eða þá atburði, að þar hafi guð beinlínis gripið inn í söguna; eg neita öllu því, sem auðsætt er að ekki getr hafa gjörzt samkvæmt fastsettum lögum náttúrunnar. Engu slíku get eg trúað."

,,Ef sagt hefði verið fyrir fám árum, að maðr einn hefði átt samtal við annan mann langt burtu á hafinu eða yfir hafið án þess að nota neinn málmþráð, hvort myndi það hafa verið talið kraftaverk?"

,,Með þeirri þekking, sem menn þá höfðu, er líklegt að vér hefðum sagt, að þar væri um yfirnáttúrlegan atburð að ræða, og sá, sem ekki hefði fengið fullkomna sönnun fyrir því að slíkt hefði í raun og veru komið fyrir, gæti hafa efazt um það."

,,En á vorum dögum trúa menn því hiklaust."

,,Auðvitað."

,,Viljið þér þá segja, að trú yðar kraftaverkum viðvíkjandi sé komin undir því, hve mikil persónuleg þekking yðar er, eða sönnun þeirri, sem yðr fullnægir, með útskýring, er sannfœrir yðr, að því er snertir náttúru-öflin, sem nýlega hafa komið til sögunnar? Með öðrum orðum: að mælikvarði trúarinnar á yfirnáttúrlega hluti sé hjá yðr breytilegr, og að sá breytilegleiki mælikvarðans sé kominn undir framförum þekkingar yðar á jarðneskum hlutum? Þurfið þér að taka svo eða svo miklum framförum í skilningi og á þann hátt að verða búinn undir sérhverja nýja opinberan gœzku og máttar guðs áðr en þér fáið talið það sannleik, er aðrir menn halda fram sem vísindalegri niðrstöðu eða verklegum votti kærleika og máttar guðs?"

,,Eg trúi því mér til fagnaðar, að mér sé stöðugt að fara fram að þekking og trú. Eg sé á þessum tíma, að margt það er skynsamlegt, sem feðr vorir kölluðu kraftaverk."

,,Þér játið því þá, að efi yðar kraftaverkum viðvíkjandi er óákveðnari, lausari takmörkum bundinn, en yðr fannst vera fyrst í samtali okkar ; að hann hefir aftr og aftr breytzt í liðinni tíð, og að hann getr enn breytzt í ýmsu, sem allt til þessa hefir verið yðr óljóst?"

,,Strangt tekið má vera að svo sé, að því er snertir merking þá, sem eg legg í orðið. En það segi eg hiklaust, að afskifti guðs af náttúrunni eru fast-ákveðin ; að guð grípr ekki sérstaklega með mætti sínum inn í rás atburðanna því eða því barni sínu í hag á þann hátt, sem bent er til með orðinu ,kraftaverk'. Með öðrum orðum: Eg trúi ekki á einstaklega eða persónulega forsjón guðs, sem svo oft og einstrengingslega er haldið fram."

,,Það virðist gagnslaust, að við rœðum þetta mál frekar. Það er gleðilegt að vita, að þér hafið eins mikla trú og þér segið á kærleik og mátt guðs á bak við allar verkanir hinna svo kölluðu fast-ákveðnu náttúru-afla. Efasemdirnar, sem þér nú gangið með, virðast vera efasemdir trúar og trúarstefnu fremr en að þær snerti hið undrsamlega á verksviði mannlegs lífs. Í því tilliti ber mikið á milli í skoðunum okkar. Þótt eg vilji ekki rœða það mál frekar, þá langar mig þó til að gjöra grein fyrir, hverju eg trúi því efni viðvíkjanda, og leggja það fram fyrir yðr svo sem vitnisburð minn um það, hvað guð er mér og hvað hann fúslega vill vera hverjum þeim, sem treystir honum.

,,Í augum guðs er hvorki til stórt né smátt. Forsjón hans, sú er til vor nær, er bæði almenns og sérstaklegs eðlis. Í honum lifum, hrœrumst og erum vér. Næsta andartak vort er jafn-mikið komið undir persónulegum mætti guðs eins og rás himintunglanna er komin undir því, að hann haldi í gangi hinum miklu öflum alheimsins. Í biblíunni, sem segir frá ,kraftaverkum' þeim, er hann hefir látið koma fram samkvæmt ráðsályktan forsjónar hans fyrir börnum sínum, leyfir hann oss að bera þarfir vorar fram fyrir hann og fullvissar oss um, að oss sé óhætt að treysta honum til að bœta fullkomlega úr þeim. Óteljandi mannssálir með slíku trúnaðartrausti hafa til hans leitað á tíma neyðarinnar og gátu síðan um það

borið, af eigin reynslu, að fyrirheit hans rættust algjörlega. Auðvitað notar guð alheimsöflin, þegar honum þóknast að veita bœnheyrslu börnum sínum, sem trúuð leita hjálpar hans. En guð er ekki við það bundinn, sem þau öfl vinna eins og af sjálfum sér. Guð hefir að minnsta kosti eins mikinn mátt til að stýra þeim eins og sá, er talar í telefón, þegar hann notar rafaflið til að senda lyfsölumanninum skeyti um að hann vilji fá frá honum glas af *ammóníu*-blöndu handa einhverjum, sem kennir magnleysis. Guð getr látið kraft sinn koma fram á sérstakan hátt eigi síðr en í framrás sögu-atburðanna almennt. Hann býr yfir meiri kærleik og mætti en sá, er stýrir rafmagnsvél.

,,Fyrir mig persónulega get eg þakklátr sagt það samkvæmt kristinni trúarlífs-reynslu minni í meir en hálfa öld, að eg hefi stöðugt treyst þessum sérstöku fyrirheitum guðs og að hann hefir þar aldrei brugðizt mér. Meir og betr en ástríkasti faðir eða viðkvæmasta móðir eða vitrasti læknir hefir guð að mér hlynnt með því að veita mér sérstakar bendingar, sem oft í hinu smáa mátti af ráða, hvernig að skyldi fara, og með engu móti var unnt að gjöra grein fyrir samkvæmt neinu þekktu náttúrulögmáli. Þær bendingar snertu persónulegar athafnir mínar og fyrirtœki annarra, og höfðu áhrif á líf mitt, heilsufar mitt, atvinnumál mín og almennings heill. Þetta voru ekki að eins merkilegir atburðir, heldr voru það kraftaverk, — atburðir fyrir utan það svæði sögunnar, sem skynsemin þekkir, atburðir, sem stöfuðu af því, að guð greip með mætti sínum inn í söguganginn. Og í engum efa er eg um það, að slík muni verða lífsreynslan framvegis svo lengi sem guð heldr áfram að vera guð og börn hans halda áfram að þarfnast hans og treysta honum. Bendir þetta inn á svæði kraftaverka? Eftir minni skoðan gjörir það það.''

## Frá missíónarpresti kirkjufélagsins.

4. Júlí lagði eg á stað vestr til Assiniboia, en skrapp þó af brautinni austr til Trínitatis-safnaðar í Big Grass. 5. Júlí hafði eg fjölmenna og ánœgjulega guðsþjónustu-samkomu með

byggðarmönnum. — Gifti eg þá Magnús Jónsson og Kristínu Ásmundsdóttur, en á undan vígslunni staðfesti brúðrin skírnarheit sitt. Var það eftir ósk brúðgumans, svo hann gæti óhindraðr gengið í söfnuðinn ásamt konu sinni, sem hann gjörði líka þegar eftir guðsþjónustugjörðina.

Daginn eftir hélt eg svo sem leið liggr til Churchbridge, Assa. Þegar þangað kom, var fjöldi byggðarmanna fyrir á stöðinni, til að fagna okkr (mér og konunni minni). Næstu daga fluttu þeir okkr tafarlaust um byggðina. Að aflokinni þessari hringferð settumst við að hjá Sigurði Jónssyni, og tók eg að búa unglinga undir ferming. Alla rúmhelga daga í einn mánuð, 5—6 tíma á dag, kenndi eg þeim í Þingvalla-samkomuhúsi. Fermingarbörn ein sóttu kennsluna, því skólakennsla alþýðu stóð yfir í öllum skólum byggðarinnar. — Á hverjum sunnudegi, eftir guðsþjónustu, kenndi eg á sunnudagsskóla.

Hinn 9. Ágúst fermdi eg 12 unglinga,—þar á meðal 17 ára gamlan Englending, sem les og talar íslenzku,— og sakramentaði um 80 manns.

Eftir þetta dvöldum við í ágætis-yfirlæti hjá Jónasi Þorvarðarsyni; en þann tíma notaði eg til þess að heimsœkja ísl. nýbyggja, sem búa þar í nágrenninu um slétturnar.

Eg þjónaði hlutfallslega einn mánuð hvorum, Konkordíasöfnuði og þingvallanýlendu-söfnuði. — Að aflokinni guðsþjónustu 30. Ág. afhentu Konkordía-menn mér 65 dali til kirkjufélagsins fyrir þjónustu þennan eina mánuð.

Gott eitt er að segja frá kirkjulífi Þingvallasafnaðanna; kristindómr og tilfinning fyrir íslenzkunni dafnar þar jöfnum höndum; sunnudagsskólakennsla á íslenzku í lúterskum sið helzt þar við árið um kring, og hafa valdir kennarar hana á hendi. — Í sumar hafa Þingvellingar átt því láni að fagna, að hafa íslenzka kennara við tvo af alþýðuskólunum: hinn unga gáfumann Helga Helgason, og ungfrú Björgu Thorkelsson, sem er jafn-hœf til hvorstveggja, að frœða börnin og hafa kristileg áhrif á hugsunarhátt þeirra, enda kennir hún alla daga, jafnt helgidaga sem rúmhelga daga.

Í byrjun Septembermánaðar ók eg með Sigurði Jónssyni suðr til Dongola-Ísnledinga, dvaldi þar svo nokkra daga, og

hélt til á hinu inndæla heimili Kristjáns Pálssonar og Jónínu konu hans. Kristján flutti mig um byggðina, og töluðum við um safnaðarmyndun við menn; en sú umleitan var eiginlega óþörf, því allr þorri byggðarmanna hafði þegar fastráðið að mynda kristilegan söfnuð. Hinn 6. Sept. höfðum vér guðsþjónustu-samk. í hinu reisulega húsi Þorsteins Gíslasonar; síðan, eftir að hafa neytt gestrisnilegra veitinga, var skotið á fundi, og forseti kosinn Gunnar Jóhannsson; safnaðarmyndun var samþykkt; lög hins ev. lút. kirkjufélags voru samþykkt og frumvarp kirkjufélagsins til safnaðarlaga viðtekið sem lög safnaðarins, en söfnuðr nefndr Ísafoldarsöfnuðr og fastráðið, að sækja um inngöngu í Hið ev. lút. k.fél. Ísl. í Vestrh. Safnaðarstjórarnir völdu forseta, Valdemar Gíslason.

Daginn eftir, hinn 7. Sept., ók Gunnar Jóhannsson með mig suðr undir dal, til Tantallon-Íslendinga. Eg hálfkveið fyrir þessari ferð, því uppskeru-annir stóðu sem hæst, en móttökurnar urðu aðrar; eg var borinn á höndum. Heila viku dvaldi eg þar, og hélt þá til á hinu myndarlega heimili þeirra Hólsbræðra, Jóns Júlíusar og Sigurðar Afríkufara, sem búa þar ásamt móður sinni, en Mikael, einn af þeim bræðrum, ók með mig um alla byggðina. — Undirtektir manna að mynda söfnuð voru mjög ánægjulegar, og að öllu forfallalausu hefði hér myndazt söfnuðr þá þegar; en laugardaginn 12. Sept. gjörði slíkt hríðarveðr og fannfergi, að allir vegir urðu ófærir eða þá lítt færir. Það var því hlutfallslega fátt af byggðarmönnum, sem gat sótt guðsþjónustu, er vér héldum næsta dag. Samt hafa þeir menn tekið mál þetta til meðferðar, sem treystanda er til að framfylgja því. Það má því telja víst, að Tantallon-Ísl. myndi lút. söfnuð í mjög nálægri framtíð.

14. Sept. keyrði eg til Langenburg; en þar tók eg mér far austr til Gladstone. Ætlaði eg að þjóna hálfsmánaðartíma Trínitatis-söfnuði; en á stöðinni í Gladstone hitti eg safnaðaðarforsetann, og óskaði hann eftir, að þjónustu þessari væri frestað, þangað til menn væri almennt komnir heim frá þreskingarvinnu. Eg hélt því áfram til Winnipeg, og kom þangað samdægrs.

18. Sept. 1903. PÉTR HJÁLMSSON.

## Bréf séra Odds V. Gíslasonar.

Icelandic River, 24. Ágúst 1903.

Séra Jón Bjarnason,

forseti Hins ev. lút kirkjufél. Ísl. í Vestrheimi.

Háttvirti herra forseti!

Eg hefi nú fengið sérprentuð „Tíðindi frá kirkjuþingi" höldnu í Argyle 18.—24. Júní þ. á., 1903, sem meðal annars flytr nefndarálitið í málinu „um afstöðu séra Odds V. Gíslasonar til kirkjufélagsins".

Nú hefi eg ánœgjuna af að sjá það svart á hvítu, óbreytilegt úr þessu og opið til athugasemda, enda mun mörgum verða starsýnt á það síðarmeir, þegar hjátrú og hleypidómar dofna.

Hefði þetta kirkjuþing verið haldið á miðöldunum, þá hefði það orðið sögulegt, því þá var ekki ólíklegt að reykjarilm hefði lagt „upp í hæðir" af galdra-brennu; en nú eru ekki þeir tímarnir, þótt vandlætingin sé mikil, því auðsjáanlega hefir kirkjufélagið á þessu þingi reynt að gjöra mér eins mikla og magnaða svívirðingu, eins og frekast var hœgt; hinn bróðurlegi sœtleiki blíðmælanna hverfr í aðferðinni.

Í nefndinni eru einn prestr og fjórir bœndr, ekki frekar skólagengnir, og þessir menn hafa ekki talað prestinn upp, til þess að leiða lækninga-aðferð mína að „kukli"; en þessi prestr, auðvitað, gat leitt þessa öldunga, með einni tegund af „occult science", nfl. „personal magnetism", eins djúpt niðr, eins og honum þóknaðist.

Nefndarálitið er stýlað eins og það er stýlað, og eg átti lítið við nefndina nema það að hlusta á, heyra og svara orðum séra F. J. Bergmanns, að eg hefði valdið hneyksli í kirkjufélaginu með dáleiðslu-lækningum mínum, og ef eg hætti ekki við þessar lækningar, þá væri mér ekki trúað fyrir trúboði í kirkjufélaginu. Það var eitt af tvennu, annaðhvort —ellegar, en í nefndarálitinu kemr það betr „pólerað". Hann vissi, hvað hann mátti bjóða sér; hann vissi, að eg var þegar dœmdr, fyrirfram; slegið föstu, að trúboðs-starfsemi geti ekki með nokkru móti samrímzt því, að gefa sig við

heimullegum vísindum svo nefndum; og ákvarðanir kirkjufélagsins, hvort réttar eða rangar, eru naglfastar. Það hefir auðvitað löggjöf og dómsvald, hvað það sjálft snertir, ef ekki kemr í bága við æðri lög, og þarf engin frekari rök að fœra en sjálfu gott þykir.

Viðvíkjandi úrslitunum varð eg ekki var við neinar umrœður, og álít eg nefndarálitið samþykkt umrœðulaust. Eg finn ekkert að því; dómrinn var ákveðinn; séra Friðrik vissi, hvað hann sagði, þegar hann lagði fyrir mig lífsreglurnar, annaðhvort—ellegar; — allt dansar eftir sömu pípu.

Eg lýsti því yfir, að eg héldi áfram lækningum mínum; því hvað sem kirkjufélaginu líðr, þá vinn eg verk minnar köllunar í drottins nafni, að þjóna honum með því að vitna um hann, og reyna að glœða og efla velfarnan brœðra og systra að sál og líkama.

Hvað auglýsingarnar snertir, þá vorkenni eg þeim, sem á þeim hneykslast; því það gjöra að eins þeir, sem eru á sérstöku stigi (siðferðisl.) menningarinnar og tímans, og er reiðubúinn að forsvara þær, sem velsœmandi, ef á þarf að halda.

Eg lýsti því yfir, að eg héldi áfram að lækna, og að læknis-aðferð sú, sem eg viðhefi, myndi innan skamms verða kunn, og þá sést bezt, hvort hún verðr eigi samrímd við prestsstöðuna, kirkjuna og biblíuna, þegar blessunarríkir ávextir hennar birtast í sólskininu, og fleiri þekkja hana en nú, þ. e. af löndum, því þúsundum þúsunda annarra þjóðflokka er hún þegar kunn, og má nú heita, að tíminn sé kominn að breyta nafninu ,,occult science" í "patented science".

Látum nú ,,occult science" eiga sig; hér álít eg, þegar brotið er til mergjar, að atriðið hafi verið, að losna við séra Odd! — og vegna hvers? Hann hefir þótt of sjálfstœðr.

Eg hefi aldrei gjört neina fjárkröfu til kirkjufélagsins.

Eg hefi aldrei dregið missíóns-kaup í kirkjufélaginu.

Kirkjufélagið hefir, ótilkvatt af minni hálfu, veitt mér fjárupphæð á ári hverju, frá 25—100 dollara, í viðrkenningarskyni fyrir starfsemi mína í trúboði og prestsstörfum, og hefi eg með ánœgju og þakklæti þegið það, sem vott um

bróðurlegan velvilja ; — en mér hefir aldrei komið til hugar að verða kirkju-kvígildi kirkjufélagsins.

Það er óumflýjanlegt að hneykslanir komi, og eg bíð þess ókvíðinn, að það sannist, að hneykslið verðr ekki mín megin, heldr kirkjufélagsins; því að lesa ,,ocult science'', að nota og viðhafa það, sem gott er og guði þóknanlegt, og sem miðar til þess, að leiða manninn nær guði, í elskunni til hans og náungans, það getr engan trúaðan hneykslað; og eg mótmæli því, að eg hafi gefið nokkurt tilefni til hneykslis með lækningum mínum, og fylgi því hér, að fremr ber að hlýða guði en mönnum.

Það, sem eg álít hneykslið í þessu máli, er framkoma prestanna gagnvart mér.

Eg vann ekki heimullega eða ,,occult''—það var auglýst, opið og hreint, en :

1. Prestar kirkjufélagsins höfðu aldrei á það minnzt við mig, fyrir 22. Júní, þ. ár, að lækningar mínar væri ámælisverðar.

2. Enginn prestanna sýndi lit á að tala nokkurt orð mér til málsbóta 22. Júní, á dómstundinni.

3. Enginn prestanna hefir, svo mér sé kunnugt, sýnt neina viðleitni að lækna líkami safnaðarlima sinna, þótt þeir viti, að styrkr og þrek sálarinnar er mikið kominn undir heilbrigði líkamans, og máske fundið til þess, þegar um lækningar mínar var að rœða.

Á þessu þrennu fannst mér: ,,að eg væri ekki meðal brœðra á þessu þingi'', og sá og skildi sannmælið: ,,enginn er annars bróðir í leik''.

Kirkjufélagið hefir nú röggsamlega tryggt sig fyrir frekari ,,viðrkenningum'' eða fjárveitingum til mín, og meining mín er sú, að verða því ekki frekar til þyngsla.

Háttvirti herra forseti !

Samkvæmt framanskrifuðu, sem eg hefi varazt að menga öðrum málum, finnst mér samvinnan þvingandi, og leyfi mér að tilkynna yðr, að :

**Hér með segi eg mig úr Hinu ev. lúterska kirkjufélag Íslendinga í Vestrheimi.**

Gjörið svo vel og auglýsið þessa úrsögn mína í ,,Sameiningunni''.

Gjöri eg rangt, bið eg guð að fyrirgefa mér það; hann varðveiti og blessi kirkjufélagið og presta þess í Jesú nafni.

Virðingarfyllst.

ODDR VIGFÚS GÍSLASON,
prestr.

* * *

Þetta bréf séra Odds V. Gíslasonar skýrir sig að miklu leyti sjálft. Það, sem á vantar því til skýringar, er að finna í Tíðindum frá síðasta ársþingi kirkjufélagsins. En séra Oddr var ekki viðstaddr, þegar mál hans var fyrst rætt á þingfundi, —kom ekki til þings fyrr en eftir að því hafði verið vísað til nefndar. Niðrstöðu málsins á þingi má hvorki kenna séra Friðrik J. Bergmann sérstaklega, né hinum mönnunum í nefndinni, sem það mál var vísað til, né prestunum, heldr þingmönnum öllum í heild sinni. Í nefndina út af því máli kvaddi forseti fjóra leikmenn úr Nýja Íslandi, þar sem séra Oddr hefir átt heima öll þau ár, sem liðin eru síðan hann kom hingað vestr frá Íslandi. Þeir voru flestum öðrum líklegri til þess að vera kunnugir starfi hans, allir honum vitanlega velviljaðir og einn þeirra auk þess honum talsvert venzlaðr. Engin skoðanaskifti í nefndinni, og engin athugasemd við tillögu nefndarinnar frá neinum á þinginu. Um harðneskju af þingsins hálfu gegn séra Oddi er ekki að ræða. Hann var alls ekki rekinn úr kirkjufélaginu, enda kannast hann sjálfr við það með því að segja sig nú úr lögum með oss. Hann hafði ekki lengr neinn fastan söfnuð, og þá þurfti þingið eðlilega að komast að niðrstöðu um það, hvernig samband hans við kirkjufélagið skyldi verða framvegis. Nefndin telr því að eins rétt að ráða þinginu til að hafa hann sem missíónarprest í þjónustu kirkjufélagsins, að hann hætti við lækningar þær hinar sérstöku, sem hann á síðastliðnu ári tók að eiga við, með því henni leizt, að þær gæti ekki samrímzt prestsembættinu, eins og þær ekki heldr eru viðrkenndar í lútersku kirkjunni né öðrum evangeliskum kirkjudeildum. Og þessa tillögu nefndarinnar aðhyllist þingið hiklaust og

einhuga. En séra Oddr lýsir yfir því, fyrst í nefndinni og síðan á þinginu, að hann sé ófáanlegr til að standa í þjónustu kirkjufélagsins upp á þau skilyrði. Hann vill heldr vera fyrir utan kirkjufélagið en hætta við lækningarnar. Með lækningafyrirtœki sínu setr hann kirkjufélaginu svo að kalla stólinn fyrir dyrnar.

Séra Oddr lýsti og yfir því, að lækningar hans ætti rót sína að rekja til þess, sem á ensku máli er nefnt *occult science* eða ,,heimulleg vísindi'', eða með enn öðru nafni ,,egypzk speki''. Með því gaf hann sjálfr tilefni til þess að nefnt var orðið ,,kukl''. Og út af því leiðir hann galdrabrennu-hugmyndina í bréfinu.

Vér könnumst við það sem yfirsjón af hálfu kirkjufélagsmanna, að enginn þeirra, hvorki prestr né leikmaðr, minntist á það við séra Odd fyrr en á nefndarfundinum á kirkjuþinginu, að lækningafyrirtœki hans væri ámælisvert eða frá kristilegu sjónarmiði ósamrímanlegt kennimannsembættinu. En á hinn bóginn eru engar minnstu líkur fyrir því að hann hefði tekið slíkar bendingar til greina. Hann bendir sjálfr á orsök yfirsjónar þessarar hjá oss brœðrum hans í kirkjufélaginu þar sem hann tekr það fram í bréfinu, að hann hafi þótt *of sjálfstæðr;* játar óbeinlínis með því, að til ónýtis hefði verið að þoka honum á sannfœringarinnar leið frá uppteknum hætti, eins og líka reyndin varð á, þegar nefndin átti tal við hann á þinginu. En engu að síðr var það vítaverð vanrœkslusynd af vorri hálfu, að enginn úr hópi vorum skyldi fyrir kirkjuþing reyna að sannfœra bróður vorn um hið varhugaverða við lækninga-uppátœki hans. Eins og allar aðrar syndir þarf sú synd fyrirgefningar. Og því fremr ættum vér allir, sem á kirkjuþinginu sátum, að vera fúsir til að fyrirgefa séra Oddi það, sem hann fer rangt með í bréfi sínu.

Winnipeg, 8. Október 1903.

**Jón Bjarnason.**

---

Séra Friðrik Hallgrímsson kom hingað vestr frá Íslandi með fjölskyldu sinni undir lok Septembermánaðar. Hann prédikaði í fyrsta sinn í kirkju Argyle-safnaðanna 17. sunnud,

eftir trín. (4. Okt.) eftir að hafa skrifað undir grundvallarlög kirkjufélagsins og af forseta þess verið settr inn í hið nýja prestakall sitt. — Eftir þá guðsþjónustu var þar í kirkjunni haldinn trúarsamtalsfundr. Umtalsefnið *kirkjan*. Séra Friðrik J. Bergmann var auk hinna prestanna tveggja á þeim fundi. Séra Jón Bjarnason hóf umrœðurnar. Fundrinn fjölmennr.

Séra Friðrik Hallgrímsson er ungr maðr, fœddr 9. Júní 1872. Útskrifaðr úr latínuskólanum í Reykjavík 1891, tók guðfrœðispróf við háskólann í Kaupmannahöfn 1897; prestvígðr 1898; þjónaði holdsveikra-spítalanum í Laugarnesi tvö ár og síðan Útskála-prestakalli allt til síðustu fardaga.

---

Ritgjörðin í þessu blaði um ,,vantrú á kraftaverk" er þýdd úr *Sunday School Times* (Philadelphia). Það er ein af mörgum ritstjórnargreinum, sem þar hafa smámsaman birzt síðan í fyrra með sameiginlegri aðal-fyrirsögn: ,,How to deal with doubt" (Hvernig á að fara með efasemdir í trúarefnum?). Þetta er sú af þeim ritgjörðum, sem síðast hefir þar komið út. Þær verða síðar gefnar út í sérstökum bœklingi. Aðal-ritstjóri blaðsins, dr. Trumbull, er augsýnilega höfundrinn.

---

GJAFIR TIL BÓKASAFNS kirkjufélagsins: a) frá Kristjáni Schram í Minneota: Fimmtíu píslar-hugvekjur (Vigfúsar hugv.)—Kh. 1851; b) frá Vigfúsi Anderson, kirkjuþ.m.: Bastholms höfuðlærdómar (án titilbl.)—Viðey 1837; c, frá Ingibjörgu Bjarnadóttur í Winnipeg: Flokkabók (Fœð.-, Pass.- Uppr., Hugv.-sálmar) — Viðey 1843; d, frá Stefáni J. Scheving í W.peg: Vegleiðsla til talnalistarinnar (Ól. Ólavíus)—Kh. 1780; frá Gunnari Árnasyni í W.peg: Lýðmenntun eftir Guðmund Finnbogason—Akreyri 1903.

---



---

,,SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið ,,Kennarinn" fylgir með ,,Sam." í hverjum mánuði. Ritstjóri ,,Kennarans" er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa ,,Sam.": 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—

Útgáfunefnd: JÓN BJARNASON, (ritstj.), FRIÐRIK J. BERGMANN, ÓLAFR S. ÞORGEIRSSON, N. STEINGRÍMR ÞORLÁKSSON, PÉTR HJÁLMSSON, WILHELM H. PAULSON, HALLDÓR S. BARDAL,

Prentsmiðja Lögbergs.—Winnipeg.